Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

Athugið að viðbót er komin við gíró-númerið 27810-6.

Ársáskrift.........3000 kr.
Hálfsársáskrift......1800 kr.
Ársfjórðungsáskrift..1000kr.
Baráttuáskrift (gildir fyrir heilt ár)........5000 kr

10. tölublað. Þriðjudagur 22. mars. 6. árgangur Verð kr. 60.

## Mengun í kerskála og tregða fyrirtækisins









Myndir úr kerskála

Skýrsla Heilbrigðiseftirlits ríkisins um vinnuaðstöðu og hættu á atvinnusjúkdómum í álverksmiðjunni í Straumsvík, er Matthías Bjarnason, heilbrigðisráðherra, vitnaði í á dögunum hefur beint sjónum manna að heilsufari starfsmanna í verksmiðjunni og aðbúnaði öllum í sambandi við vinnu þar í meira mæli en nokkru sinni áður. Menn hafa vanist að líta á mengun og mengunarvarnir nær eingöngu í sambandi við umhverfi verksmiðjunnar, s.s. gróðurinn í hrauninu og dýralífið í sjónum. Ítarlegar rannsóknir hafa verið gerðar á náttúrunni kringum verksmiðjuna og sýnt fram á, hvílík hætta henni stafar af menguninni frá verksmiðjunni. Menn geta því rétt ímyndað sér hver áhrif þessi mengun hefur og kann að hafa á starfsmenn verksmiðjunnar sem innilokaðir eru í þessu eiturlofti nær daglega.

### Hræðsla yfirvalda

Það er athyglisvert, að skýrsla sú, sem Matthías byggir greinargerð sína að mestu á, er send heilbrigðis- og tryggingarmálaráðherra 11. ágúst 1972. Ráðuneytið hefur sem sagt lumað á niðurstöðum þessara rannsókna í hátt fimmta ár. Í þá tíð var það enginn annar en Magnús Kjartansson, sem gegndi störfum heilbrigðisráðherra, sá þingmaður Alþýðubandalagsins, sem hvað háværast mótmælti innrás erlendra auðhringa í landið. Það sýnir okkur aðeins hverra erinda þessi endurskoðunarsinnaflokkur gengur. Upplýsingar um vinnuaðstöðu, er varða líf og heilsu verkamannanna sitja algjörlega á hakanum, þegar um hagsmuni einokunarauðvaldsins er að ræða. Er það ekki af einskærri þjónkun við Alu-Swiss auðhringinn, sem yfirvöld kæra sig ekki um að skýrsla þessi verði opinber fyrr en nú, þegar kröfur um hreinsitæki í verksmiðjunni verða æ háværari?

### Mengun í kerskálum og seinagangur við uppsetningu hreinsitækja

Það má líta á skýrslu heilbrigðisyfirvalda sem óvæntan stuðning við baráttu okkar verkamanna í Straumsvík fyrir betri vinnuaðstöðu. Það er einkum þrjú atriði, sem skipta hvað mestu máli í því sambandi 1)Krafa um fullkomin hreinsitæki, 2)viðurkenning á að hætta sé á atvinnusjúkdómum á svæðinu, en hingað til hefur fyrirtækið tregðast við að játa að svo væri, 3) krafa um styttri vinnutíma. Verkamenn í kerskála eru þegar farnir að ræða kröfur fyrir komandi samninga og í því sambandi hafa þeir sett á oddinn kröfuna um styttingu vinnuvikunnar. (Sjá grein um þetta annars staðar í blaðinu).

Í sjónvarpsviðtali svaraði Ragnar Halldórsson, forstjóri Ísal, skýrslu heilbrigðisyfirvalda sem áróðurskenndum greinarskrifum og órökstuddum fullyrðingum. Og í svari Íslenska Álfélagsins til Heilbrigðiseftirlitsins, er birtist í Morgunblaðinu 5. mars er fullyrt, að loftið í kerskálum sé næstum skaðlaust og að fyrirtækið hafi hraðað uppsetningu hreinsitækja eins og mögulegt hefur verið. Við sem höfum starfað í kerskálunum í nokkur ár vitum fullvel, að fullyrðingar forráðamanna fyrirtækisins eru út í hött. Í greinargerð Ísals segir m.a. að vinnuaðstaðan í Straumsvík sé mun betri "... en víðast hvar annars staðar í málmbræðslum. Stafar þetta af því hversu góð loftræsting er þar, en endurnýjun lofts fer fram upp um gólf kerskálans og út um rjáfur." Það er nú svo. Vissulega væri vinnustaðan algjörlega óbærileg, ef ekki væru fyrir hendi viftur á þökum skálanna, sem soguðu burt mesta rykið. En það er ekki nóg. Kerin eru opin og upp úr þeim stígur gasmökkur og um hættuna, sem af honum stafar þarf vart að deila. Þannig hagar til um mörg störf í kerskálunum, að starfsmenn þurfa beinlínis að standa yfir kerunum. Þeir sem óþægilega hafa orðið fyrir barðinu á slíkum gasmekki hafa vart náð andanum og jafnvel kastað upp af þeim sökum.

Fyrir fáeinum árum var talsvert rætt um kerbrot eða úrgang úr kerum, sem tekin höfðu verið úr sambandi, sem sturtað hafði verið í sjóinn með alvarlegum afleiðingum fyrir dýralífið þar. Nú er þessi úrgangur úr kerunum fínmalaður og því síðan hellt á kerin. Þegar svo kerin eru brotin gýs upp mengn óþefur af þessu og er það síst til að bæta loftið í skálanum.

Einnig má benda á, að loftið í kerskálunum er misjafnlega slæmt. Það fer eftir veðri og vindum. Þegar hvassviðri er, slær menguninni aftur niður í skálana, þannig að loft verður mjög slæmt.

Í svari Íslenska Álfélagsins við skýrslu heilbrigðisyfirvalda segir einnig að..."unnið hefur verið sleitulaust að hreinsitækjamálum frá 1972.." Ef svo hefði verið, væri andrúmsloftið í kerskálunum vafalaust mun betra en nú er. Hreinsitæki Jóns Þórðarsonar, sem tilraun var gerð með snemma árs '72, reyndust óbrúkanleg. En síðan var ekkert gert í þessum málum fyrr en í ársbyrjun 1976, þegar farið var að gera tilraunir með að loka kerunum með þar til gerðum þekjum, sem að öllum líkindum munu verða til að bæta andrúmsloftið til muna. Þessum tilraunum hefur miðað ákaflega seinlega, því aðeins tvö ker eru þannig útbúin af 280. Allar yfirlýsingar um að sleitulaust

FRAMHALD Á BAKSÍÐU

## MEÐAL EFNIS ER:

Frá Iðjufundi
SJÁ BAKSÍÐU

Um kenningu Maós um þrjá heima
SJÁ SÍÐU 3.

Veggblaðastríð í H.Í.
SJÁ SÍÐU 3.

Á að leggja niður landbúnað á Íslandi?
SJÁ BAKSÍÐU

### Herstöðvaandstæðingar

## Erlendir auðhringir

Samtök herstöðvaandstæðinga gengust fyrir ráðstefnu um erlenda auðhringi og sjálfstæði Íslands, laugardaginn 12. mars síðastliðinn. Í auglýsingu frá miðnefnd kom fram að á henni yrðu flutt fjögur framsöguerindi og yrðu frjálsar umræður um hvert erindi. Frummælendur voru þeir Ólafur Ragnar Grímsson, Kjartan Ólafsson, Jónas Jónsson og Jón Kjartansson. Í ræðum þeirra komu fram ýmsar athyglisverðar upplýsingar t.d. um stóriðju hér á landi og um tilraunir erlendra auðhringa til að ná yfirráðum yfir stórum hluta orkulinda okkar. Mun Stéttabaráttan væntanlega gera þeim þáttum betri skil í næstu blöðum.

### Skipulag ráðstefnunnar.

Það var mjög einkennandi á þessari ráðstefnu, að frummælendurnir og þeir sem skipulögðu ráðstefnuna virtust ekki skilja mikilvægi þess að nægur tími yrði til umræðna um efni hennar, bæði mikilvægi baráttunnar gegn ásælni erlendra auðhringa og þá einnig hvernig herstöðvaandstæðingar geti lagt sitt af mörkum í þeirri baráttu eða

FRAMHALD Á SÍÐU 3.



Frummælendur tóku sér góðan tíma til að flytja mál sitt á ráðstefnunni

LEIÐARI

# Sameining "vinstrimanna"

Saga íslensku verkalýðshreyfingarinnar er full af dæmum um sundrungu og innbyrðis baráttu. Íhaldið notfærir sér venjulega þessa baráttu til þess að ráðast að verkalýðshreyfingunni og breiða út þá skoðun að "vinstri-menn" séu margsundraðir og klofnir.

"Vinstrimenn" eins og Morgunblaðið skilgreinir þá, eru klofnir í Alþýðubandalagið, Alþýðuflokkinn, Samtökin, Kommúnistaflokkinn og aðra hópa til vinstri við AB. Framsókn er m.a.s. dubbuð upp sem "vinstri-flokkur", þegar hún er ekki í stjórnarsamstarfi við Sjálfstæðisflokkinn. En er betur er að hugað, sést að íhaldið byggir afstöðu sína á sandi. Það fer venjulegar leiðir broddborgarans og dæmir eftir orðum mannanna en ekki gerðum. Fyrir því er sundrung "vinstrimanna" tilvist annarra flokka en Sjálfstæðisflokksins. Hugtökin "vinstri" og "hægri" eru að sjálfsögðu afstæð og aðeins nothæf til samanburðar, þegar átt er við stéttarlega afstöðu stjórnmálaflokkanna. Þannig efast enginn um að Sjálfstæðisflokkurinn sé "hægriflokkur" í dag, en samanborið við t.d. fasíska flokka er óhjákvæmilegt að telja Sjálfstæðisflokkinn borgaralegan lýðræðisflokk og til "vinstri" við þá. Alþýðubandalagið er án alls vafa til "vinstri" við sjálfstæðismenn, samkvæmt stefnuskrá sinni, en samanborið við Kommúnistaflokkinn er AB óneitanlega hægriflokkur. Þannig verða hugtökin "hægri" og "vinstri" með öllu marklaus, ef ekkert tillit er tekið til stéttarlegrar afstöðu flokkanna. Aðeins þeir sem þjóna byltingarsinnuðum hagsmunum verkalýðsins eru vinstrimenn í verki. Hinir sem þjóna borgarastéttinni og halda baráttu verkalýðsins innan ramma hins kapitalíska þjóðskipulags, eru hægri menn, hverju nafni sem þeir nefna sig. Það gildir einu hvort þeir kalla sig Alþýðusinna, verkalýðssinna, vinstrimenn, eða marxista. Ef þeir starfa ekki í anda marxisman lenínismans og vinna að vopnaðri valdatöku verkalýðsstéttarinnar í íslensku auðvaldsþjóðfélagi, eru þeir borgaralegir stjórnmálaflokkar, hægri - flokkar.

Sundrungin í röðum verkalýðshreyfingarinnar er ekki af völdum verkalýðsins eða hugmyndafræði hans, heldur stafar hún af borgaralegum áhrifum í röðum verkafólks. Hún er merki um þá hugmyndafræðilegu, pólitísku og efnahagslegu yfirburði, sem borgarastéttin hefur í auðvaldsþjóðfélaginu. Sameining "vinstri-manna" getur þess vegna aldrei falist í samslætti flokka og flokksbrota "til vinstri við Sjálfstæðisflokkinn", hún verður að vera sameining á grundvelli marxismans-lenínisman- kenninga Maó Tse-tungs. Sagan hefur sannað og sýnt, að því aðeins að byggt sé á samansafnaðri byltingarreynslu verkalýðs alls heimsins, getur verkalýður hvers lands orðið sigursæll. Þessi reynsla er dregin saman í kenningum Marx, Engels, Leníns, Stalíns og Maós og verkefni íslenskra byltingarmanna, er að beita henni réttilega og á skapandi hátt við íslenskar aðstæður. Að sameina verkalýð og vinnandi alþýðu undir fánum sósíalísku byltingarinnar. það er að sameina "vinstrimenn".

20. mars 1977.

# Eik hafnar samfylkingu 1 mai

Kommúnistaflokkurinn sendi frá sér samfylkingartilboð nú fyrir skemmstu, um aðgerðir á 1. maí. Flokknum hefur nú borist svar frá EIK(m-l), en á 1. maí í fyrra, stóðu þau að Baráttueiningar-göngunni með Kommúnistaflokknum og ýmsum öðrum samtökum. Svarið er alger afneitun á hvers kyns samstarfi eða samfylkingu. Það hljóðar svo: "Vegna tilboðs KFÍ/ML um samfylkingu 1. maí næstkomandi, vill framkvæmdanefnd EIK(m-l) taka eftirfarandi fram: EIK(m-l) samfylkja ekki með endurskoðunarsinnuðum flokkum og samtökum. Afstaða EIK(m-l) er sú, að KFÍ/ML sé endurskoðunarsinnaður hentistefnuflokkur og við hann verði hvorki höfð samvinna né viðræður. Um skilyrði fyrir að þessari afstöðu sé breytt vísast til svars EIK(m-l) við tilboði KFÍ/ML frá 17. janúar s.l. EIK(m-l) samfylkja ekki með neinum samtökum að þessu sinni 1. maí, heldur með einstaklingum. EIK(m-l) hafna því samfylkingartilboði KFÍ/ML."

Þessi afstaða Einingarsamtakanna ber ekki beinlínis vitni um einingarvilja. Látum kyrrt liggja, þótt forystumenn EIK velji að ausa Kommúnistaflokkinn skammaryrðum, því ásökunin um að Kommúnistaflokkurinn sé endurskoðunarsinnaður hentistefnuflokkur, er reist á slíkum forsendum. Eins og fram kemur í bréfinu, ætla EIK að samfylkja með "einstaklingum". Samfylkingargrundvöllur "einstaklinganna" sem raunar eru nær allir meðlimir EIK, hefur nákvæmlega sama pólitíska innihald og samfylkingargrundvöllur KFÍ/ML. Eina sem skilur á milli, er að EIK taka undir kröfu ASÍ-forystunnar um "100 þúsnd króna lágmarkslaun", en Kommúnistaflokkurinn leggur áherslu á lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku. Sé grundvöllur Baráttueiningar "endurskoðunarsinnaður", er einsýnt, að grundvöllurinn sem EIK ætla að styðja á 1. maí, sé það líka

Sundrungin er meinsemd.

Nútíma endurskoðunarstefnan er orsökin fyrir hinum djúpstæða klofningi sem verkalýðshreyfingin hefur þjáðst af um langan aldur. Hún hefur fært sundrungu og reikanda inn í raðir verkalýðsins, undir fána "kommúnisma" og orðið til að styrkja tök borgarastéttarinnar á verkalýðshreyfingunni. Þess vegna er mikilvægt að samfylkja öllum framfarasinnuðum öllum til baráttu gegn endurskoðunarsinnunum og borgaralegum áhrifum innan verkalýðshreyfingarinnar. Látum vera, að slík samfylking sé ekki "hrein og rauð", aðeins ef hún snýst af afli gegn meinsemd inni og berst gegn ítökum borgaralegum áhrifum innan hreyfingarinnar. Sundrungin er slík meinsemd og þess vegna er gífurlega mikilvægt, að hægt verði að sameina andstöðuna gegn hinni svikulu forystu og uppkeypta liði, sem ræður húsum í verkalýðshreyfingunni í dag. En hvernig má slíkt verða, ef allt er gert til að sundra andstöðunni? Og hverjum þjónar slíkt sundrungarstarf? Það er áreiðanlegt, að verkalýðurinn þarfnast sameiningar og samstöðu og þeir sem ganga í berhögg við slíka samstöðu, gera endurskoðunarsinnum og borgarastéttinni aðeins leikinn auðveldari. Þeir þjóna viljandi eða óviljandi andstæðingnum. Hingað til hafa það verið trotskistarnir í Fylkingunni, sem hafa splundrað samfylkingartilraunum á 1. maí. En afstaða EIK veit ekki á bót í því máli.

Kommúnistaflokkurinn er sannfærður um, að öflug samfylking verkafólks og vinnandi alþýðu á 1. maí verður til þess að styrkja hina vaxandi hreyfingu verkalýðsins gegn kúgun og arðráni borgarastéttarinnar og sundrungarstarfi ASÍ-forystunnar. Þess vegna álítur KFÍ/ML að EIK ættu að snúa bökum saman við Kommúnistaflokkinn og samfylkja sem flestum á 1. maí. Kommúnistaflokkurinn er reiðubúinn til að ræða slíka samfylkingu enn, þrátt fyrir árásir EIK á samstöðuna og sérstaklega þar sem lítið sem ekkert ber á milli pólitískrar afstöðu sem KFÍ/ML og EIK setja á oddinn á 1. maí.



## ÚR BARÁTTUNNI

ANDVARALEYSI LANDLÆKNIS

Í skýrslum um mengunarvarnir og heilsufar verkafólks í Kísiliðjunni við Mývatn, sem út komu í síðustu viku, lýsti landlæknir því yfir að ástæðan til þess að heilbrigðiseftirlit og mengunarvarnir væru bágborið í Kísiliðjunni og Álverinu, væri sú að íslendingar væru óvanir stóriðju. Ennfremur taldi hann það furðulegt andvaraleysi af hálfu hinna erlendu meðeigenda, Jóns meinvillings (Manville) og Alusviss, að aðvara ekki dótturfyrirtækin um hættu á veikindum verkafólks. Hann gat þess hinsvegar ekki að tæki til mengunarvarna væru svo dýr að fyrirtækin vildu ekki leggja í kostnað þeirra vegna þarsem þau gefa fyrirtækjunum ekkert í aðra hönd.

Í skýrslu Baldurs Johnsen, fyrrverandi forstöðumanns Heilbrigðiseftirlits Ríkisins, kom fram að mjög erfiðlega gekk að fá Kísiliðjuna til þess að setja upp lofthreinsunartæki, og gekk raunar alls ekki fyrren því hafði verið hótað að loka verksmiðjunni.

Ennfremur kom fram að veruleg hætta er á því að verkamenn fái svonefnda kísilveiki, lungnasjúkdóm, (sem getur hlotist af langvarandi vinnu í kísilryki). Eftir að hann er kominn á það hátt stig að hann getur fundist við læknisskoðun er hann ólæknanlegur. Eina ráðið til að hindra sjúkdóminn í að "grassera", er því að setja upp fullkomin rykhreinsunarbúnað og sjá verkamönnum fyrir nothæfum grímum til að hafa fyrir vitunum á meðan þeir eru að vinna. Þær grímur, sem notaðar hafa verið hingað til, eru lélegar og óþægilegar þótt sennilegt sé eitthvert gagn að þeim. En óþægingin af því að ganga með þær og þó ekki síður dæmalaus níska á þær veldur því að mjög margir nota þær yfirleitt ekki. Þokkaleg sparnarráðstöfun.

Verkamenn, við eigum heimtingu á því að heilsu okkar sé gætt með öllu tiltæku móti. Látum fyrirtækin ekki komast upp með það að spara á þennan hátt.

# Er Þjóðviljinn ósiðlegt blað?!

Nokkrar umræður hafa nú farið fram á síðum Þjóðviljans um heimsskoðun verkalýðsstéttarinnar. Þar kennir ýmsra og heldur einkennilegra grasa. Til að mynda vilja sumir framámenn rekja afstöðu sína til þjóðfélagsmála, til annara og óæðri líffæra en heilabúsins. Er nú svo komið, að hinir fróm ari Alþýðubandalagsmenn, sem leggja trúnað á undirtitil Þjóðviljans - "málgagn sósíalisma, verkalýðshreyfingar og þjóðfrelsis" - fá ekki lengur orða bundist. Þannig spyr Gunnar Karlsson lektor, hvort Þjóðviljinn eigi að skrifa um framleiðsluafstæður auðvaldsþjóðfélagsins, eða "typpi og píkur". Finnst honum að vonum vera lítill veigur í grundvallarsjónarmiðum Alþýðubandalagsins, ef málgagnið aðhyllist þá kynlegu söguskoðun, að barátta stéttanna skapist af kynferðiságreiningi. Má mikið vera, ef margur Alþýðubandalagsmaður sem ekki hefur séð í gegn um endurskoðunarsinnaðan boðskap Þjóðviljans, rankar ekki við sér við annað eins og þetta. Annars er Stéttabaráttunni ósárt um hvernig Þjóðviljinn fjallar um hugðarefni sín. En fyrir alla muni - þetta á ekkert skylt við verkalýðshreyfinguna, kommúnismann og þjóðfrelsið.

# Svar til félaga

Félagi skrifar Stéttabaráttunni og gagnrýnir framkomin ummæli um stéttgreiningu EIK í síðasta tbl. Stéttabaráttunnar. Gagnrýni á afstöðu 7-menninganna til stéttanna í 5. tbl. nær aðeins til þeirrar afstöðu, að stéttgreining Maós væri "úrelt og ekki viðeigandi á Íslandi 1976". Slíka afstöðu getur enginn marxisti-lenínisti haft, því skilgreining Maós á stéttunum hefur ekki aðeins sérkínverskt gildi, heldur einnig almennt, fræðilegt gildi, sem nauðsynlegt er að tileinka sér og læra af. Varðandi leiðara 6. tölublaðs, gætir þess misskilnings, að leiðarinn túlki afstöðu alls flokksins og það sem þar komi fram sé afstaða allra flokksfélaga. En í rauninni túlkar leiðarinn opinbera stefnu flokksins til málanna. Þannig túlkar leiðari 6. tbl. afstöðu þá, sem samþykkt var á stofnþingi flokksins, sem engan veginn útilokar umræðu og gagnrýni, þar sem slíkt er forsendan fyrir lífi og vexti flokksins. Réttilega bendir félagi á, að afstaðan til stéttgreiningarinnar hefur ekki verið endanlega útkljáð og að umræður fara fram innan flokksins um þau mál. En það hindrar samt ekki flokkinn og miðstjórn hans í að styðja sig við niðurstöður þingsins, þar til önnur afstaða hefur verið samþykkt af félögum flokksins. Ef ekki væri haldið svona á málum, myndi flokkurinn þurfa að "vera afstöðulaus" í hvert sinn sem umræður um einhver mál fara fram innan hans. En bréf félagans er þarft og mikilvægt að vakandi auga sé haft með afstöðu flokksins til hinna ýmsu mála, sérstaklega þeirra sem ekki er fullkomin eining um.

## BARÁTTUFUNDUR

Þessir listamenn koma fram:
Olga Guðrún Árnadóttir
Kjartan Ragnarsson
Spilverk þjóðanna
Guðrún Stephensen og Óskar Halldórsson lesa ný frumsamin ljóð eftir Hannes Sigfússon og Ólaf Jóhann Sigurðsson.
Fluttur verður leikþáttur eftir Pétur Gunnarson og Sigurð Pálsson.
Jónas Árnason les smásögu.
Sýnd verður kvikmynd frá 30. mars 1949
Stuttar ræður og ávörp flytja:
Guðmundur J. Guðmundsson form. Verkamannasambands Íslands
Ingibjörg Sólrún Gísladóttir námsmaður
Ólafur Jenssen læknir
Þórunn Eiríksdóttir húsfreyja á Kaðalstöðum

Herstöðvaandstæðingar sýnum baráttuviljann í verki og fjölmennum á baráttufundinn í Háskólabíó þann 30. mars.
Allir velkomnir.
Samtök herstöðvaandstæðinga.

**HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?**

Miðstjórn: Pósthólf 1357. Reykjavík, einnig í síma 27810
Ritstjórn Stéttabaráttunnar og Rauða Fánans: Pósthólf 1357, sími 27810 á opnunartíma Rauðu Stjórnunnar Lindargötu 15.
Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson Hellisbraut 10. Hellissandi.
Ísafjörður: Kristinn Karlsson Fjarðarstræti 7.
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjavíkurvegi 24.
Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c Keflavík.

# Kenning Maós um þrjá heima - Mikilsvert framlag til Marxismans - Leninismans


Maó tse-tung

Oft er talað um þriðja heiminn og risaveldin. Sumir segja að slík hugtök séu óþörf, aðeins sé til einn heimur sem skipt sé í stéttir. Félagi Maó Tse-tung jók við landvinninga marxismans-lenínismans og beitti honum á skapandi hátt við skilgreiningu á móthverfum þeim sem að verki eru í veröldinni og hafa afgerandi áhrif á framvindu heimsmálanna. Hann sýndi fram á, að eftir valdatöku nútímaendurskoðunarstefnunnar í sovétríkjunum skapaðist nýtt ástand, Sovétríkin voru ekki lengur sósíalískt ríki, heldur heimsvaldaríki sem notfærði sér rauða fánann til að hylja raunverulegt eðli sitt og heimsvaldasinnuð markmið.

Risaveldin - uppspretta styrjaldar.

Félagi Maó sýndi fram á, að afturhvarf Sovétríkjanna til kapitalískra framleiðsluhátta og fasískrar ofbeldisstjórnar, fól í sér að USA var ekki lengur eitt um hitunina í veröldinni. Nýtt risaveldi hafði haslað sér völl, risaveldi sem byggði á þeim trausta grunni sem verkalýður og vinnandi alþýða Sovétríkjanna hafði eitt sinn reist með frjálsri vinnu, en nú var orðinn tæki til arðráns á þeim sjálfum. En jafnskjótt og Sovétríkin endurreistu kapitalismann urðu líka önnur umskipti í framleiðslunni. Hin hraða uppbygging og jafnvægi framleiðsluþróunarinnar raskaðist, sjúkdómseinkenni auðvaldsframleiðslunnar heltóku sovésku framleiðsluna og gervallt sovéska hagkerfið. Sovétríkin höfðu verið sjálfum sér næg meðan þau fetuðu brautir sósíalismans, vegna þess að þau höfðu beislað mikilvirkasta framleiðsluaflið - verkalýðsstéttina. Frjáls vinna gat velt grettistökum úr vegi framleiðsluþróunarinnar, sem launaþrældómurinn getur aldrei bifað. Þess vegna fylgdi valdatöku endurskoðunarsinna óhjákvæmilega stöðnun og hrörnun. En núverandi grundvöllur sovéskrar framleiðslu er hámarksgróðinn. Sóknin í hámarksgróða kallar á hert arðrán og blóðugt ofbeldi heima fyrir, jafnhliða því sem efnahagskerfið er hervætt og búið undir að hremma nýja markaði, hráefnasvæði og yfirráðasvæði. Sovétríkin eru nú vaxandi heimsveldi, grimmt og gráðugt og því aðaluppspretta styrjaldar í heiminum. Í baráttu sinni um heiminn mætir það fyrst og fremst Bandaríkjunum - risaveldinu í vestri. Barátta og samstarf þessara ógnvalda mannkynsins er eitt af megineinkennum núverandi heimsástands.

Þriðji heimurinn - vaxandi byltingarbarátta.

En jafnhliða hrörnun auðvaldsskipulagsins og pólitískri og efnahagslegri kreppu risaveldanna og fylgilanda þeirra, vex frelsishreyfingu allrar alþýðu fiskur um hrygg. Alþýða Indókína, alþýða Afríku og alþýða Asíu og S-Ameríku hefur í vaxandi mæli haldið út á braut vopnaðrar þjóðfrelsisbaráttu fyrir þjóðfrelsi, sjálfstæði og sósíalisma. Þetta er annað megineinkennið á heimsástandinu sem félagi Maó skilgreindi af vísindalegri nákvæmni.

Maó kallaði risaveldin fyrsta heiminn, hinar fyrri nýlendur og vanþróuð ríki þriðja heiminn, en Evrópulöndin, Japan og Canada annan heiminn. Hann sýndi fram á að höfuðóvinurinn er heimsvaldastefna risaveldanna og að höfuðaflið í baráttunni gegn þeim er verkalýður heimsvaldaríkjanna og alþýða þriðja heimsins. En hann benti einnig á, að í baráttunni gegn risaveldunum er verkalýð og vinnandi alþýðu nauðsynlegt að skapa víðtækara bandalag. Reynsla kínversku byltingarinnar sannar, að þjóðlega borgarastéttin er bandamaður gegn heimsstefnunni, þótt hún sé hvarflandi og alls ómenguð að gegna forystuhlutverki í þeirri baráttu. Á þessum grundvelli verður skiljanleg sú áhersla sem kínverjar leggja á að skapa víðtæka samfylkingu þriðjaheimslandanna og óháðra landa í öðrum heiminum gegn risaveldunum og bandamönnum þeirra. Hið eina sem tryggt getur sigur yfir heimsvaldastefnunni er bandalag verkalýðsins og alþýðu kúguðu landanna, en það væri rangt að hafna bandalagi við bandamenn sem vissulega eru ótryggir og hvarflandi en leggja þó fram sinn skerf til baráttunnar. Kenning Maós í þessu atriði er mikilsverður áfangi í þróun marxismans-lenínismans, viðbót, sem nauðsynlegt er að allir marxistar-lenínistar kynni sér og tileinki, til þess að þeir geti skilið heimsástandið og verkefnin sem það skapar byltingarsinnum um víða veröld.

# Veggblaðastríð í Háskólanum

Nú um síðustu helgi hafa nokkrir athafnasamir einstaklingar tekið sig til og skreytt veggi Háskólans með plakötum sem eiga að sýna það sem kallað er "Lausn KFÍ á húsnæðisvandamálum Verkafólks".

Flokksfélagar eru vitaskuld ávalt tilbúnir að ræða stefnu flokksins í hinum einstöku málum og þá ekki síst á veggspjöldum. Þó væri óneitanlega skemmtilegra ef viðmælendur okkar gengjust við skrifum sínum. Því miður gildir um þessa nafnleysingja sem og fleiri námsmenn að þeir eru lítt meðvitaðir um innihald stefnuskrár KFÍ/ML. Við viljum benda fólki sem svo er ástatt á að útvega bæklinginn "Hvað vill KFÍ/ML" en hann fæst í bókabúðinni Rauðu Stjörnunni að Lindargötu 15. Þar segir m.a.: "Til að berjast gegn húsnæðisokrinu og því ófremdarástandi sem ríkir í húsnæðismálum setur KFÍ/ML fram þessar kröfur: Nýja löggjöf um húsaleigu - réttindi leigjenda verði tryggð. Húsaleiga íbúðarhúsnæðis verði frádráttarbær til skatts. Byggðar verði ódýrar leiguíbúðir á vegum ríkisvalds og bæja í stórum stíl til að svara þörfum láglaunafólks."

Tilvitnunin úr Stéttabaráttunni sem slegið er upp á plakötunum er þar algjörlega slitin úr samhengi við annað efni greinarinnar og gefur því alranga mynd af henni. Greinin fjallar um nauðsyn þess að leigjendur íbúðarhúsnæðis bindist samtökum til að hindra að þeir séu ofurseldir duttlungum leigusala.

Eftir að sjálfri greininni er lokið bætir greinarhöfundur þessari setningu við til að undirstrika hversu fáránlegt það sé að á meðan stórir hópar launafólks búa við algjört öryggisleysi í húsnæðismálum er hundruðum milljóna varið (m. a. úr lífeyrissjóðum) í verslunarhallir, palesandersskrifstofur og kirkjur sem yfirleitt eru tómar.

En nú hefur afturhaldið kosið að telja þetta stefnu flokksins, sennilega til að ófrægja hann. Er í rauninni merkilegt að hrakfarir þess í enn einum kosningunum hér í skólanum hafi ekkert kennt þessum mönnum og því ráðist þeir með rangfærslum og útúrsnúningum á einn aðila að samfylkingu vinstri manna í kosningunum til Stúdentaráðs, þ.e. KFÍ/ML. En þrátt fyrir starfsaðferðir þessara nafnlausu afturhaldsseggja erum við reiðubúin til að takast á við þá því að rangfærslur þeirra afhjúpa aðeins rotið yfirstéttareðli þeirra

Félagar KFI/ML í Háskólanum.


Tilvitnunin:

Að endingu vill Stéttabaráttan minna á að til eru nóg híbýli fyrir íbúa landsins t.d. bankar, kirkjur, skrifstofur, og verslanir sem eru allt of margar með sömu vörurnar. Megninu af þessum byggingum mætti breyta í þægilegustu híbýli.

## NÁMSHRINGUR KFÍ/ML

1. Kommúnistaávarpið Marx og Engels ( úrvalsrit no. 1.)
2. Díalektíska og sögulega efnishyggjan ( bækl. eftir Stalin
3. Grundvöllur pólitísku hagfræðinnar ( laun verð og gróði Marx og Engels úrvalsrit no 1)
4. Um ríkið og byltinguna. ( Lenin, Ríki og bylting.)
5. Um flokkinn Lenin/Stalin ( bæklingur Ksml.)
6. Pólitík KFÍ / ML. ( bæklingurinn Hvað vill KFÍ / ML.

Látið skrá ykkur í námshring í Rauðu Stjörnunni sími 27810. Opið daglega á virkum dögum milli kl. 15-18,3o.



FRAMHALD AF FORSÍÐU

## Erlendir auðhringir...

jafnvel leitt hana. Var engu líkara en Miðnefnd teldi almenna liðsmenn samtakanna svo ófróða um þessi mál, að þeir gætu ekki þurft að segja þar mikið um, heldur skyldu þeir aðeins sitja og hlusta á boðskap frummælendanna. Kjartan Ólafsson ritstjóri Þjóðviljans virtist a.m.k. harður á þessari skoðun, því hann hélt u.þ.b. 2ja tíma tölu á ráðstefnunni en fyrirfram var vitað, að hún gæti alls ekki staðið nema í hæsta lagi í 6 tíma. Ræðutíminn í frjálsu umræðunum var hins vegar styttur mjög og menn beinlínis hvattir til að koma ekki upp en ef þeir gerðu það, þá að segja sem fæst.

Afleiðing þessa skipulagsforms ráðstefnunnar var sú, að engin niðurstaða kom út úr umræðunum, ekki einu sinni um það, á hvaða grundvelli herstöðvaandstæðingar gætu tekið þessi mál upp. Háværustu skoðanahóparnir á ráðstefnunni voru annars vegar forystulið Alþýðubandalagsins (með Kjartan og Ólaf í broddi fylkingar) og hins vegar nokkrir Fylkingarfélagar.

Afstaða Fylkingarinnar.

Fylkingarmennirnir lýstu því yfir að þeir sæju ekki ástæðu til að berjast sérstaklega gegn erlendu auðvaldi, þar sem enginn munur væri á því og íslensku auðvaldi. Einnig settu þeir fram skoðanir sínar á stóriðjuþróuninni og töldu hana mjög framsækna. Sem dæmi nefndu þeir að í V-Evrópu og Bandaríkjunum þar sem völd og fjárfestingar auðhringanna eru sem víðtækust, eru kjörin hjá verkafólki best.

Kjartan og Ólaf á þing?

Forysta Alþýðubandalagsins sem fékk mjög rúman tíma á ráðstefnunni til að skýra viðhorf sitt, setti það skýrt fram að sú leið sem hún vill nota til "baráttu" gegn ásælni auðhringa er þingræðisleiðin. "Íslenskt ríkisvald getur sett innlendri borgarastétt stólinn fyrir dyrnar" sagði Kjartan Ólafsson. Og Ólafur Ragnar ítrekaði að vegna ríkisreknu bankanna megi í gegn um kosningar ná stjórn yfir íslensku atvinnulífi þar sem íslenskir atvinnurekendur eigi ekkert rekstrarfjármagn. Hins vegar er erfiðara að stjórna erlendu auðhringunum þar sem þeir eru óháðir íslensku bankakerfi og lúta ekki íslenskum lögum. Sú baráttuleið sem forystumennirnir lögðu því upp, var að strax í næstu kosningum yrði komið til valda þeim stjórnmálaöflum sem eru á móti erlendri stóriðju og reiðubúnir að stjórna uppbyggingu innlendra atvinnuvega og er þar fyrst og fremst átt við Abl. Þannig virðast Alþýðubandalagsforkólfarnir nú stefna að því að gera Samtök herstöðvaandstæðinga að kosningaapparati fyrir sig. Ef þau verða gerð að slíku tæki eru þau um leið dæmd til að missa allan mátt því í andheimsvaldasinnaðri baráttu sem og í annari baráttu dugar skammt að hafa "vinsamlega menn" í ráðherrastólum ef fjöldinn stendur ekki einhuga að baráttunni og almennum liðsmönnum samtakanna er helst ekki ætlað annað hlutverk en kjósa xG á fjögurra ára fresti fyrir utan að dreifa Dagfara og kaupa happdrættismiða samtakanna. Ef við ætlum að ná árangri verðum við að þróa samtök okkar fram á annan hátt. Tengsl almennra liðsmanna (hverfa-og svæðahópar) við toppmennina (miðnefnd) verða að aukast og starf herstöðvaandstæðinga verður í æ ríkara mæli að beinast að áróðri útávið, en sá þáttur virðist að mestu hafa þokað fyrir einangruðum umræðum innan hópanna.

Rvk. 16. 3. 77.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



STÉTTABARÁTTAN
10. tbl. 6. árg. 22/3 1977

Útg.: Kommúnistaflokkur Íslands m-l

STÉTTABARÁTTAN kemur út vikulega

Sími: 27810
Gíró 27810-6.

Ábyrgðarm.: Sigurður Ingi Andréson


# Landbúnaðarmál

*Fimmta grein*

Undanfarið hefur verið um það talað að 3 leiðir séu fyrir höndum í landbúnaði á Íslandi. Hin fyrsta sé sú að leggja landbúnað niður að verulegu leyti, t.d. að hálfu, önnur sú að láta allt dankast á svipaðan hátt og verið hefur undanfarið, og sú þriðja sé sú að stórefla landbúnaðinn með tilliti til verulegs útflutnings auk heimamarkaðar. Verður í þessari grein reynt að reifa þessi mál nokkuð.

## Á að leggja niður landbúnað á Íslandi?

Um fyrstu og aðra leiðina var fjallað lauslega í síðasta blaði, a.m.k. þá hlið sem snýr að bændum. Bent var á hvað yrði um ýmsa bændur, þeir hrektust frá búi og yrðu verkamenn, ofurseldir óöryggi i atvinnumálum. Rétt er að benda ennfremur á það að ef fyrsta leiðin yrði fyrir valinu, og fyrir því er fullur vilji hjá stórkaupmannastéttinni, þá munu ekki eingöngu bændur missa vinnu sína, heldur og fjölmargt iðnverkafólk líka. Bændur eru nú nálægt 5000. Ef 2000 til 2500 þeirra missa vinnu sína ásamt skylduliði sínu táknar það a.m.k. 5000-6000 atvinnuleysingja og til viðbótar það iðnverkafólk sem missir vinnuna, samtals allt að 10.000 manns. En auðherrarnir hafa "patent"lausn, láta þetta fólk bara stunda "arðbæra" atvinnu. Það þyrfti að reisa a.m.k. 10 álver. Og það vilja auðherrarnir. Verkafólk vill það aftur á móti ekki: Hver skyldi ráða?

Yrði landbúnaðurinn lagður niður að hálfu slyppi ríkissjóður við að greiða útflutningsuppbætur á dilkakjöti. En við yrðum líka að hætta að flytja út hinar verðmætu ullarvörur, ost og margt fleira sem aflar gjaldeyris.

Þriðja og besta leiðin er tvímælalaust sú að efla íslenskan landbúnað. Veita þarf stórauknu fjármagni til uppbyggingar svo að ungt fólk geti hafið búskap. Einsog fram kom í síðasta blaði kostar það yfir 30 milljónir að koma á fót búi. Stofnlán til framkvæmdanna nema hinsvegar aðeins um 35% af kostnaðinum. Afleiðing þessa er sú að ungt fólk hrekst frá því að hefja búskap, jafnvel sveitaunglingar sem fá jörð foreldra sinna.

Ungu fólki þykir búskapurinn bindandi atvinna og er það vissulega rétt. Ekki þýðir að hugsa um helgarfrí nema þá hluta úr sumrinu hjá sauðfjárbændum, hvað þá sumarfrí. Og kúabóndinn getur ekki einu sinni tekið sér helgarfrí þá. Til að leysa þetta vandamál er félagsbúskapur æskilegur. Hann er þó óvíða stundaður nema af feðgum og systkinum.

Það er örugglega ein besta leiðin til að ungt fólk hefji búskap, að efla félagsbúskaparformið. Það er þó fráleitt að ætla sér í upphafi að koma á fót stórum samyrkjubúum, heldur koma á fót stig af stigi.

Það er nauðsynlegt að áhugasamt og atorkufullt ungt fólk sem lýkur námi úr búnaðarskóla geti farið að búa. Og til þess að svo geti orðið þarf að veita stórauknu fé til Stofnlánadeildar landbúnaðar svo að hún sé fær um að lána 70-80% af stofnkostnaði hið minnsta. Það mætti hugsa sér hærri lánsprósentu til félagsbúskapar, honum til eflingar.

Ef ekki verður að gáð mun bændum fara fækkandi og of lítil endurnýjun verður í stéttinni. Aðeins fjársterkir aðilar geta þá stundað búskap. Þá verða sjálfstæðir bændur minnihluti stéttarinnar og stóratvinnurekendur ráða þar öllu. Byggð myndi raskast, heilar sveitir fara í eyði og bændur klofna í landbúnaðarverkamenn og stóratvinnurekendur. Þetta er nær en margur hyggur. Mun því verða fjallað nánar um þetta í blaðinu eftir svosem 3 vikur.

# Iðjufundur

Laugardaginn 12. mars s.l. var haldinn félagsfundur í Iðju, félagi verksmiðjufólks. Á dagskrá voru kjaramál og uppsögn samninga, en hins vegar ekkert um kosningu samninganefndar. Á næsta fundi áður hafði verið borin upp tillaga um kosningu nefndar, er hefði viðræður við Félag ísl. iðnrekenda. Hinir venjulegu flytjendur frávísunartillaga, fluttu tillögu um að vísa þessu frá "vegna frumgalla". Um miðnætti þegar flestir voru farnir af fundi (20-30eftir), var frávísunartillagan samþykkt með naumum meirihluta.

Á síðasta fundi var flutt tillaga um að Iðja kysi sér eigin samninganefnd, er semdi beint við iðnrekendur og hefði ekki samflot við ASÍ. Vitanlega var borin upp frávísunartillaga á þessa tillögu líka og hún talin ólögmæt, því samþykkt hefði verið á síðasta fundi áður að hafa samflot við ASÍ. Engin tillaga var samþykkt að segja upp samningum. Samkvæmt lögum Iðju skulu stjórn og trúnaðarmannaráð semja fyrir hönd félagsins, þótt yfirleitt hafi verið leitað samþykkis félagsmanna á sérstakri samninganefnd. Ekkert er í lögum félagsins um að stjórnin megi afsala þessu valdi í hendur annarra. En nú á greinilega að endurtaka ósvífnina frá í fyrra. Kjararáðstefna ASÍ hefur kosið 21 mann samninganefnd og landssambönd og svæðasambönd 16 menn aðra. Samkvæmt skipulagsreglum ASÍ og yfirleitt allra samtaka, þá hefur ráðstefna ekkert vald. Innan ASÍ og annarra samtaka liggur valdið hjá þremur aðilum: þingi, stjórn og félagsfundi. Ráðstefna getur ráðlagt hvernig samningum skuli háttað og hverjir verði samningamenn, en slíkt verður að fá samþykki þeirra sem með vald fara, áður en samninganefndin hefur störf. Hver hefur samþykkt þá nefnd sem skipaði sig á kjararáðstefnunni? Ekki félagsfundur Iðju, svo mikið er víst. Samt er þessi "samninganefnd" þegar farin að ræða við atvinnurekendur, ríkisstjórn og sáttasemjara. Nógu andskoti er það þröngt lýðræðið innan verkalýðsfélaganna, þó farið sé eftir þeim reglum sem þar gilda. Við könnumst að meginefni við þessa nefnd. Þeir voru ekki félegir samningarnir hennar í fyrra. Eftir hálfs mánaðar verkfall komu þessir samningamenn borubrattir á fund. "Hvað eru menn að rífa sig yfir skorti á lýðræði í verkalýðshreyfingunni? Hér fáið þið að ráða því hvort þið samþykkið þessa samninga. En ef þið gerið það ekki, þá er ég ekki reiðubúinn að reyna að semja upp á meira og þá stendur félagið okkar eitt í verkfalli án stuðnings ASÍ. Þið hafið fullan rétt til að fella samningana og kjósa nýja samninganefnd, sem yrði þá að byrja á öllu frá grunni. Hún stæði án stuðnings ASÍ gegn sameinuðum atvinnurekendum. Þið eruð búin að vera hálfan mánuð í verkfalli, hvað getið þið soltið lengi?" Síðan kemur hjartnæm og skilningsrík ræða um hvað kjör verkafólks séu slæm og þeir klökkna hreinlega þegar þeir minnast á bágan hag atvinnurekenda. Ríkisvaldið er svo skelfilega vont við atvinnurekendur. Það skattpínir þá alveg hræðilega og þvingar þá á allan hátt svo þeir hafa ekkert svigrúm til kauphækkana. Ríkið þyrfti auðvitað að lækka tolla og skatta á fyrirtækjum, en veita þeim styrki í staðinn, til eflingar íslenskum iðnaði". Ríkisvaldið er í rauninni aðeins tæki í höndum atvinnurekenda, notað til að kúga og blekkja alþýðuna. Verkfallsvopnið er sterkt og hættulegt vopn. Við getum beitt því til að stöðva mikilvæga þætti framleiðslunnar og neyða þannig atvinnurekendur til að ganga að kröfum okkar. En í höndum rangra manna er líka hægt að beita því eins og gert var í fyrra, að reka fólk úr vinnu um tíma til að kúga það til að samþykkja samningana.

Atvinnurekendur vissu löngu fyrirfram hvernig síðasta verkfalli yrði hagað og bjuggu sig undir það. Bitleiki verkfallsvopnsins felst í því að stöðva einstaka þætti í framleiðslukeðjunni, en ekki keðjuna alla, til að skapa þrýsting frá þeim framleiðslugreinum sem enn eru í gangi. Tökum sem dæmi:

Ef sjómenn fara í verkfall, þá fá frystihúseigendur ekkert hráefni, en þurfa að halda fast ráðnu fólki á launum. Ef verkfall er í frystihúsum geta útgerðamenn ekki selt aflann. Ef netagerð stöðvar fást ekki veiðafæri. Þegar einn þessara þriggja þátta stöðvast skapast þrýstingur hjá hinum, en þegar allir þrír þættirnir stöðvast í einu, situr enginn uppi með vöru sem hann getur ekki selt eða vinnslu án hráefnis. Síðasta verkfall sýndi hver stefna forystumanna verkalýðshreyfingarinnar er í verkfallsbaráttunni. Stjórnarmönnum skal ekki líðast að skjóta sér bak við að þeir hafi ekki komið sínu fram vegna einhverra annarra í samninganefnd. Stjórn Iðju situr uppi með samningsvaldið í félaginu og standi hún sig ekki við þessa samninga, þá höfum við ekkert með slíka heybrækur að gera í næstu stjórn.

FRAMHALD AF FORSÍÐU

# Mengun í kerskála og...

hafi verið unnið að þessum málum eru því ekkert annað en rakalausar fullyrðingar.

Seinnihluta s.l. sumars, þegar heimsmarkaðsverð á áli fór hækkandi var nokkrum tugum kera startað aftur, eftir að hafa staðið ónotuð um nokkurt skeið, með forgangshraða og ekkert var hirt um að útbúa þau með þar til gerðum þekjum. Gróðinn sat að sjálfsögðu í fyrirrúmi, en vinnuaðstaða og hollustuhættir aukaatriði.

## Yfirlýsingar mútuþega Alu-Swiss auðhringsins

Fyrrum öryggisfulltrúi í Straumsvík og núverandi forstjóri Landssmiðjunnar, Ágúst Þorsteinsson, fann sig knúinn til að svara skýrslu Heilbrigðiseftirlitsins sem dylgjum og hreinum ósannindum. (Sjá Vísi frá 4.3.).

Verkamenn í álverinu þekkja hann sem dæmigerðan fulltrúa auðhringsins, enda lét hann lítið að sér kveða í sambandi við bættan öryggisaðbúnað á svæðinu. Allt er gott og blessað hjá Ísal og öryggi og vinnuaðstaða hvergi betri að hans dómi. Ágúst segir, að fyrirtækið hafi m.a. getað bent bændum á réttar grímur til varnar heymæði. Spurningin er bara, hvort notaðar séu réttar grímur hjá álverinu. Á sínum tíma kom það t.d. til tals að nota aðrar og betri grímur við vinnuna, en slíkt hefur að líkindum þótt helst til kostnaðarsamt, því þær eru nokkuð dýrari en þær, sem nú eru notaðar. Ágúst fullyrðir ennfremur að af þeim átta veikindatilfellum, sem um er getið í skýrslunni, hafi sex starfsmenn haft ofnæmissjúkdóma áður en þeir hófu störf hjá verksmiðjunni. Nú er því þannig varið, að öllum er skylt að gangast undir læknisskoðun um leið og þeir hefja störf hjá Ísal og þá sjaldan læknisskoðun er framkvæmd eftir það, er sérstaklega spurt hvort viðkomandi hafi ofnæmi fyrir einhverju. Því spyr ég: Hví var þessum sex veitt starf hjá fyrirtækinu fyrst í ljós kom, að þeir voru haldnir ofnæmissjúkdómum?

Ágúst gerir einnig lítið úr hávaðanum í verksmiðjunni og fullyrðir, að allir þeir, sem mældust hafa skerta heyrn, hafi haft hana fyrir. Hér er aðeins um fullyrðingu út í bláinn að ræða, því allir sem til þekkja vita gjörla, að hávaði frá alls konar vélum og tækjum er töluverður, bara misjafnlega mikill eftir því hvar á svæðinu menn vinna.

Svo kemur þessi stórkostlega setning öryggisfulltrúans fyrrverandi: "Setjum ákveðnar reglur um hámarksmagn efnis í andrúmslofti, en beitum ekki ofstæki sem er notað vegna pólitískra vinsælda." Á hann hér við flokksbróður sinn, Matthías Bjarnason? Og hvað með Ágúst sjálfan? Hefði hann fengið stöðu forstjóra Landssmiðjunnar, nema vegna pólitískra vinsælda hjá Sjálfstæðisflokknum, sem hann var í framboði fyrir í síðustu bæjarstjórnarkosningum?

Ummæli Jóels Sigurðsson, yfirskálastjóra, eru líka dæmigerð fyrir fulltrúa fyrirtækisins. Morgunblaðið hefur eftir honum 3. mars s.l. að hann hafi "aldrei fundið neitt", þó segja megi, að hann "sé í einna óþrifalegasta starfinu", sem fólgið er í því, að koma nýju keri af stað. "Maður er nánast yfir kerinu í marga tíma," segir Jóel. Þetta "óþrifalega starf" Jóels er fyrst og fremst fólgið í því, að sitja uppá kontór allan liðlangan daginn - fjarri óþrifalegur lofti og skít. Það kemur jú fyrir stöku sinnum, að hann stingur hausnum inní skálann, m.a. til að vera viðstaddur, þegar ker er sett í gang, en hlutverk hans er þá fyrst og fremst í því fólgið að gefa fyrirskipanir. Það eru óbreyttir verkamenn, sem vinna skítverkin og þeir verða að vera í menguninni 8 tíma á dag, sem Jóel notar mestan part til að hafa hægt um sig á kontórnum.

## Af hverju stafar tregða fyrirtækisins við uppsetningu hreinsitækja?

Hagsmunir einokunarauðvaldsins eru andstæðir hagsmunum verkalýðsins. Hjá einokunarauðvaldinu sitja gróðahagsmunirnir ávallt í fyrirrúmi. Líf og heilsa verkamannanna eru aukaatriði. Umhverfisvernd og mengunarvarnir eru mikilvæg hvað snertir heilsu og vinnuaðstöðu fyrir vinnandi alþýðu. Í augum kapítalistans eru þau hins vegar lítilvæg atriði, vegna þess að ekki er hægt að græða á þeim. Grundvallarorsök þess, að auðherrarnir tregðast við að setja upp hreinsitæki og fullnægja þannig sjálfsögðum og eðlilegum kröfum samfélagsins um mengunarvarnir, er, að í auðvaldsþjóðfélagi ríkir lögmálið um einkaeign framleiðslutækjanna, gagnstætt því sem er í sósíalísku löndunum, þar sem samfélagsleg eign á framleiðslutækjunum er ráðandi. Fullkomlega viðunandi vinnuskilyrðum fyrir verkalýð og alla alþýðu verður því ekki náð fyrr en framleiðslutækjunum hefur verið breytt úr einkaeign í eign alls þjóðfélagsins.

Sig. J. Ólafss. / starfsmaður í kerskála.